# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

SJÖUNDI ÁRGANGR:

## Marz 1892—Febr 1893.

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

Útgáfunefnd: Jón Bjarnason, Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Blöndal.

WINNIPEG.

PRENTUÐ Í PRENTSMIÐJU LÖGBERGS.

# EFNI:

Séra Friðrik J. Bergmann hefir í sjúkdómsforföllum J. Bj. haft á hendi ritstjórn „Sam." allt þetta ár nema tvo síðustu mánuðina (Janúar og Febrúar).

Gísli Egilsson

# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

7 ár. WINNIPEG, MARZ 1892. Nr. 1.

## *FASTAN. SYNDIN OG NÁÐIN.*

Hvaða hugleiðingar eru það, sem fylla ættu hjörtu kristinna manna um þetta leyti? Af öllum tímabilum kirkjuársins er föstutíminn þýðingarmestur. Ár eptir ár lifa þá kristnir menn upp aptur á andlegan hátt hinn stórkostlegasta viðburð mannkynssögunnar. Píslarsaga og píslardauði frelsarans er hið lang-stærsta og lang-þýðingarmesta af öllu því, sem mannkynssagan hefur frá að segja. Á vogarskálum sögunnar er sá viðburður svo þungur, að hann eins og vegur upp á móti öllum öðrum.

Hann minnir oss á tvennt. Og þetta tvennt er tvö aðalatriði kristindómsins. Hann minnir oss á mannanna mesta sorgarefni. Og hann minnir um leið á mannanna mesta gleðiefni.

Sorgin, — allt það, sem mennirnir verða að taka út, í hverju er það innifalið? Tegundir sorgarinnar eru ótal, og málið á ótal orð til að tákna hana með í hennar ýmsu myndum. Vjer tölum um harma og raunir, bágindi og neyð, trega og tár, óp og vein, stunur og andvörp, sársauka og kvöl, fátækt og örbyrgð, skömm og smán, ótta og örvinglun. Öll þessi orð og mörg önnur fleiri tákna neyð mannlegs hjarta í ýmsum myndum. Sá, sem finna vill upptök

fljótsins, fylgir því frá mynni þess og þangað, sem hin fyrsta uppspretta kemur upp úr jörðinni. Tökum nú allar þessar hugmyndir, sem tákna mannlega sorg, og fylgjum þeim þangað, er þær hafa upptök sín. Hver verður þá niðurstaðan? Sú, að allar þessar mörgu mannlegu raunir hafa sameiginleg upptök. Hvaða upptök? Hvað heitir uppsprettan? Syndin. Þaðan eru allar vorar raunir runnar. Það orð felur í sjer allar mannlegar sorgarhugmyndir. Af því syndin yfirgnæfir, yfirgnæfir líka sorgin. Viljir þú gjöra sorgina minni, verður þú að stemma stigu fyrir syndinni. Viljir þú fá eitthvert lyf, er ljetti harm þinn, verður það að lækna þína synd. Viljir þú hugga þann, sem örvæntingin hefur slegið, verður þú að gjöra einhverja fullnægjandi ráðstöfun fyrir synd hans.

Fastan minnir oss þá fyrst og fremst á þetta sterka, eyðileggjandi afl í mannshjartanu og mannlífinu, — syndina. Hún kemur til vor eitt sinn á hverju ári til að beina huga vorum inn á við, — kennir oss að ganga upp með fljótum mannlegra rauna og rekja allt það, er að oss amar, þangað, sem það hefur upptök sín. Svo nemum vjer staðar, slegnir af ótta og hræðslu, fyrir framan vora eigin synd. Þaðan allur harmur, öll tár.

Hugsaðu þjer kvalir allra manna orðnar að einni kvöl, andlegan harm allra einstaklinganna orðinn að einum harmi, allar syndir, sem mennirnir drýgja, orðnar að einni stórsynd. Ímyndaðu þjer svo einn einstakling standa fyrir framan þetta allt, — taka við kvölum allra manna og líða þær, taka við öllum harminum, sem tætir sundur mannleg hjörtu, og leggja hann inn í sitt eigið hjarta, taka við öllum syndum mannanna og þola hegning þeirra. Þegar þú ímyndar þjer þetta, sjer þú hina guð-mannlegu persónu hans, sem fastan er helguð. Föstutíminn segir þess vegna við þig eins og Jóhannes skírari: Sjá það guðs lamb, sem ber alls heimsins synd!

Fastan lætur þig fyrst nema staðar fyrir framan þína eigin synd. Svo sýnir hún þjer syndir allra manna,— einstaklinganna, þjóðanna, mannkynsins. Og hún lætur hjarta þitt vera hrætt og sál þína fulla dauðans angist. En svo

sýnir hún þjer hann, sem tók allt þetta að sjer, — leið fyrir það allt, bar það upp á krossinn, ljet það sprengja hjarta sitt.

Hið fyrsta orð föstunnar til mannanna er: Syndin. Hið annað orð, sem hún talar til þeirra, er: Náðin. Syndin og náðin eru kristindómsins aðalhugmyndir og allar föstuhugleiðingar ættu að vera um þetta tvennt. Syndin er mannanna mikla sorgarefni. Náðin, opinberuð í Jesú Kristi frelsara vorum, mannanna mikla gleðiefni.

Vjer eigum einhver hin fegurstu trúarljóð, sem til eru í heiminum út af píslarsögu frelsara vors, passíusálmana. það, að þessir sálmar eru svo dýrðlegir, er vegna þess, að höfundinum hefur tekizt svo vel, að gjöra þetta tvennt átakanlegt: Mannlega synd og guðlega náð. þú, sem þetta les, lát þú ekki þessa föstu svo yfir þig líða, að þú lesir ekki passíusálmana, til þess að sannfærast þar um þína eigin synd og guðlega náð.

Að þessi föstutími yrði apturhvarfs og iðrunartími fyrir allt vort fólk og að það mætti flýja með alla sína harma og raunir, bágindi og neyð, trega og tár, óp og vein, stunur og andvörp, sársauka og kvöl, fátækt og örbyrgð, ótta og örvinglun undir kross frelsara vors og sannfærast þar um guðlega náð, — það látum vjer vera föstubæn „Sameiningarinnar.“

---

## *KVEÐJA PÁLS TIL EFESUSMANNA.*

(Pg. 20)

Eptir síra Valdemar Briem.

—o—

Nú röðull enn þá lopti ljómar á,
en lætur senn í haf og fjöllin kveður.
Svo kvaddi Páll á kveldi lífs síns þá,
er komu til hans Efesusborg frá,
og mælti við þá hrærðu hjarta meður:

Nú fyrir landi bíður búin skeið,
er bera skal mig nú frá þessum ströndum.
Til Jerúsalem liggur nú mín leið,

hvort líftjón þar mín bíður eða neyð,
það veit jeg ei, en allt er guðs í höndum.

Mjer er það nóg, ef jeg með gleði get
mín gengið þrautaspor til skeiðsins enda.
Mín forlög eigi fyrir mig jeg set,
og fjör mitt sannarlega dýrt ei met.
Jeg fæ um síð í friðarhöfn að lenda.

Nú langt er orðið frá því fyrst að hjer
jeg fór að kenna bert og líka' í hljóði.
Þjer vitið hvernig hagað hef jeg mjer,
í hinnsta sinni vitna skuluð þjer,
að hreinn og sýkn er eg af allra blóði.

Nú horfið þetta gamla andlit á,
sem ellin sínum rúnum markað hefur,
það aldrei framar fáið þjer að sjá,
og feigðarmark er nú á öldungsbrá.
En auglit guðs skín æ og birtu gefur.

Nú horfið vinir enn í augu mjer,
þau aptur lykjast senn af þreytu taka.
Þótt hylji móða hvarma minna gler
af harmadögg, — það furða nein ei er.
En alskær drottins augu sífellt vaka.

Nú lítið á mín gömlu, gráu hár,
þau gránað hafa' í freistinganna stríði.
Hið ytra' er hvítt, en innra blóðug sár;
en andinn verður þó ei hærugrár;
hann blómgast kann, þótt ellin yfir líði.

Sjá þessi klæði, gömul, dökk og grá,
ei gull nje silfur skín á mínum klæðum,
því heimsins glys jeg girnzt hef ei að fá
og gull og silfur engum tekið frá.
En æðra gull jeg geymt mjer veit á hæðum.

Sjá þessar hendur, hendur mínar tvær;
sjá hrukkurnar og förin eptir böndin.
þær ærið hafa unnið nær og fjær,
en ellin tekur nú að lýja þær.
En aldrei þreytist himnesk drottins höndin.

Í öllu vildi' eg yður sýna það:
Á eigin vinnu er farsælast að byggja,
og hjálpa þeim, er eiga fáa að,
og ætíð minnast þess, er drottinn kvað:
hann sagði vera sælla' að gefa' en þiggja.

En hvað er jeg að segja' af sjálfum mjer?
Jeg söfnuð guðs þó fremur hef í minni.
þú góða hjörð, haf gát á sjálfri þjer,
þig guð til eignar kosið hefur sjer,
og Kristur yður keypt með pínu sinni.

þá eg er farinn, aðrir taka við,
þá inn í hjörð sjer smeygja grimmir vargar,
er yður svipta ró og rjúfa frið,
og ranga kenna trú og spilltan sið.
þá orðið drottins eitt í nauðum bjargar.

En varið yður, veröldin er hál,
og vakið, biðjið, hlýðið drottins orðum.
þá heimurinn með hræsni fer og tál,
þá hafið þjer í minni gamla Pál,
er opt með tárum yður kenndi forðum.

Og yður nú jeg einum guði fel
og orði hans, þjer mínir kæru bræður;
það lifir ætíð, jeg þótt hljóti hel.
Í hinnsta sinni farið allir vel.
Ó hvar vjer aptur hittumst, guð einn ræður.

Svo voru orð hans. Enginn tók til máls,
en allir störðu votum hvörmum á hann.

þeir vini lögðu hendur blítt um háls,
mest hryggir voru þeir af orðum Páls,
að aldrei framar ættu þeir að sjá hann.

En loks þar kom, hann láta varð í haf,
á landi hinir grátnir eptir stóðu.
það jafnskjótt var að sólin seig í kaf
og sjáfarbylgjum Páll varð hulinn af.
En daggir eptir daginn fagra glóðu.

## *YFIRLÝSING SÍRA MATTHÍASAR.*

Öllum er í fersku minni grein síra Matthíasar Jochumssonar í „Norðurljósinu“, 16. tölublaði f. á. Á grein þessa var minnzt allrækilega í október-nr.i „Sam.“ Síra M. kom þar skýlaust og afdráttarlaust fram með neitun á mögulegleik eilífrar útskúfunar. „Sam.“ tók fram í tilefni af þessari grein hans, að kirkjustjórnin íslenzka hefði að eins um eitt að velja, það að láta sjera M. kalla aptur þessi ummæli sín og gjöra það að skilyrði fyrir því, að hann gæti framvegis haft á hendi kennimannlegt embætti. það lá öllum skynsömum mönnum í augum uppi, að um þetta var engum blöðum að fletta, svo framarlega sem kirkjustjórninni væri annt um að standa sjálf við játning kirkjunnar og heimta það af öðrum. Síðan höfum vjer beðið mjög svo áhyggjufullir um, hvernig kirkjustjórnin mundi koma fram í þessu máli.

Í nóvember-nr.i Kirkjublaðsins stendur yfirlýsing frá síra Matthíasi. Í þeirri yfirlýsing segir hann, að biskupinn hafi sent sjer alvarlega áminning út af áminnztri grein. Hann hafi skorað á sig að yfirlýsa opinberlega, að hann „hafi ritað öll hin svæsnu orð í tjeðri grein, er valdið geta hneyksli, með *of miklum hita* og í bráðræði“. þetta kannast hann við og beiðist afsökunar fyrir. Svo segir hann, að biskupinn hafi enn fremur skorað á sig að votta skýlaust, að ásetningurinn með greininni hafi ekki verið sá: „*að rýra eða kasta skugga á kirkju vora og kristindóm*“. þetta

segist síra M. geta fúslega gjört, því tilgangur sinn hafi einmitt verið sá, „að efla og auka álit og sóma þess kirkjufjelags“, sem hann telji sjer sæmd og ávinning að þjóna, svo lengi sem honum sje gefið viðunanlegt frelsi til að fylgja sannfæring sinni.

Þessi einkennilega yfirlýsing var birt í Kirkjublaðinu, án nokkurrar athugasemdar af ritstjórans hálfu, nje heldur biskupsins. Af þeirri þögn gat legið nærri að draga þá ályktun, að kirkjustjórnin ætlaði að láta við þessa yfirlýsing sitja og gjöra sig ánægða með hana. En svo mun þó ekki vera. Biskupinn mun hafa tekið sjer all-nærri grein síra M. og það er mjög mikil ástæða til að halda, að efni áskorunar hans hafi verið nokkuð annað og meira en yfirlýsingin gefur í skyn. Enda mun hann ætla að gjöra prestum sínum það skiljanlegt, að slíkt athæfi verði ekki þolað af kirkjustjórnarinnar hálfu framvegis. Eflaust hefur hann einlægan vilja til að hrinda því í lag, sem aflaga fer í kirkjunni. Enda þarf þýðing biskupsembættisins einmitt að verða augljós á þann hátt, að einhversstaðar sje tekið í taumana með fastri hendi og einbeittum vilja. Annars fara óvinir kirkjunnar að fá fleiri og fleiri á sitt mál, þegar þeir eru að tala um afnám biskupsembættisins, sem auðvitað væri til stórmikils tjóns fyrir kirkjuna.

Vjer höfum þess vegna fyllstu ástæðu til að vona, að þetta frumhlaup síra M. leiði til þess, að meiri áherzla verði lögð á það hjer eptir en hingað til, að prestar hinnar ísl. kirkju standi við eið sinn og játning kirkjunnar. Enda er það lífsskilyrði eins og nú er ástatt. Engum einum manni er unnt að gjöra jafn-mikið fyrir kirkju fósturjarðar vorrar og þeim manni, sem drottinn hefur skipað í biskupsembætti. Hann bæði getur haft og á að hafa mjög mikil áhrif á alla framkomu andlegu stjettarinnar í málum kirkjunnar. Það er bæn vor til hans, sem stýrir öllum málefnum kristninnar, að hann gefi þeim manni, sem nú er yfirumsjónarmaður hinnar ísl. kirkju, náð síns heilaga anda til að kenna henni trúmennsku við drottins sáluhjálplega orð og játning þeirrar kirkjudeildar, sem hún tilheyrir.

## HVAÐ KIRKJUBLAÐIÐ SEGIR.

———o———

Ritstjóri þess, prestaskólakennari síra þórhallur Bjarnarson, hefur ritað all-langa grein í desemberblaðið með fyrirsögninni: „Síra Matthías og útskúfunarkenningin.“ Gangur málsins er þar fyrst rakinn og meginið af grein síra Jóns Bjarnasonar um það er tekið upp. Ritstjóri Kirkjublaðsins kvartar um að vandlifað sje fyrir kirkjustjórnina íslenzku eptir „Sam.“ Síra M. hafi látið á prent frá sjer „vantrúaryfirlýsing“, sem hljóti að leiða til afsetningar, vilji hann ekki apturkalla. En „Sam.“ segi sjálf, að M. sje aldrei í sínu „elementi“, þegar hann kemur fram fyrir almenning í sínum blaðagreinum, eða þegar hann yfir höfuð fer að tala í óbundinni ræðu. — Og svo er spurt, að hvorri hliðinni á síra M. á nú kirkjustjórnin að snúa sjer? — það er tilraun til að gjöra gaman að ritstj. „Sam.“ fyrir ummæli hans um síra M, og kröfu hans til kirkjustjórnarinnar. En svo er nú sá, sem þetta ritar, blindur, að að hann finnur hjer enga mótsögn og því síður neitt til að gjöra gaman að. það, að síra M. er svo langt frá að vera í sínu „elementi“, þegar hann talar opinberlega í óbundinni ræðu, að hann þá sem optast fer með óþolandi vaðal, er víst ekki síður viðurkennt af ritstjóra Kirkjublaðsins en oss. þetta út af fyrir sig gjörir hann í vorum augum lítt færan til að vera kennara í kirkjunui. því auðvitað eru ræður hans í óbundnum stíl keimlíkar blaðagreina-stílnum hans. En það, að hann nú hvað eptir annað opinberlega í blöðunum veldur hneyksli í kristnum söfnuði með því að neita ákveðnum trúarlærdómum, sem kirkja sú, er hann stendur í sem þjónandi prestur, játar með öllum hinum kristna heimi, gjörir hann í vorum augum alveg ófæran og óhæfan til að hafa kennimannlegt embætti á hendi í kirkjunni framvegis. það er þessi hliðin á sjera M. sem snýr að kirkjustjórninni. Vjer ráðum henni til að snúa sjer einmitt að þeirri hliðinni.

„Sam.“ hefur haldið skáldskapargáfu síra M. á lopti og gjört mikið úr henni; það er satt og það skal aldrei aptur tekið. það hefur margur maður verið gott skáld,

spámaður þjóðar sinnar, en um leið verið ófær til að fylla nokkurt embætti eða vera nokkuð annað. Síra M. er einn af þeim. Sízt af öllu ætti Kirkjublaðinu að finnast það ofsagt, er vjer höfum látið oss um munn fara um skáldskapargáfu síra M., því sjálft segir það um hann: „Vjer erum margir, já rjett allir sem elskum þig og viljum þig sízt missa, þú ert oss sem þúsund“. Hann er vissulega ekki þjóð sinni sem þúsund í sinni prestslegu stöðu. En hann er henni sem þúsund með því að yrkja fyrir hana og fá að vera laus við prestsskapinn. Hann verður kirkjunni til tjóns og skapraunar einlægt meðan hún beitir honum fyrir kerru sína. En fengi hann lausn frá prestsskap sínum, losaðist kirkjan líka við það hneyksli, sem stefnuleysi hans og hringlandaháttur í trúarefnum veldur. Hefði þetta almennt verið viðurkennt meðal kirkjunnar manna heima, væri þegar fyrir löngu búið að veita sjera M. sæmileg skáldalaun af almanna fje og láta hann hætta við prestskap. Svo mikil áhrif hefur kirkjan á pólitík landsins, þegar hún vill fá einhverju framgengt, ef hún beitir afli sínu, það er óhætt að fullyrða. En það hefur ekkert verið reynt til þess af kirkjunnar hálfu. Fyrir þetta fær hún nú að líða.

Kirkja fósturjarðar vorrar hefur tvöfaldan vanda af hendi að inna við síra M. Fyrst og fremst þann, að láta hann nú ekki lengur vera prest. Þar næst þann, að sjá um, að hann geti lifað sómasamlega á sínum efri árum. Til hvers hafa menn kirkjustjórn? Er ekki aðal-verkefni hennar einmitt í því fólgið, að sjá um að allt fari fram sómasamlega og með reglu í kirkjunni, en koma í veg fyrir að söfnuður drottins verði fyrir hneyksli og álasi. Hin íslenzka kirkjustjórn hefur vissulega enga undanþágu fengið í þessu efni. Engin kirkjustjórn má leyfa nokkrum manni, hversu dýrðlega hæfilegleika sem hann hefur og hversu fagurt dagsverk sem hann kann að hafa unnið fyrir þjóð sína, að nota embætti kirkjunnar til að hneyksla söfnuðinn. Hún gjörir þá sjálfa sig meðseka.

Þetta finnur líka ritstjóri Kirkjublaðsins. Því hann segir, að síra M. og þeir prestar, sem honum kunni að vera

samdóma, verði að athuga það, að neiti hann eða þeir áfram í sinni grunnhyggni mögulegleika eilífrar útskúfunar og lýsi kenningu kirkjunnar í þeirri grein guði óverðuga, hneyksli, eða því um líkt, þá hljóti að draga til skilnaðar milli þeirra hinna sömu og kirkjunnar.

Fyrir þessa yfirlýsing erum vjer Kirkjublaðinu þakklátir. Hún gleður oss hjartanlega, ekki sízt vegna þess, að vjer álítum hana prógramm kirkjustjórnarinnar sjálfrar ekki síður en Kirkjublaðsins. Villa sú, sem t. d. sjera M. Skaptason í „sinni grunnhygni" hefur ratað út í, er einmitt í því innifalin að neita mögulegleik eilífrar útskúfunar, lýsa þá kenning kristinnar kirkju guði óverðuga, hneyksli og annað þaðan af verra. Fyrir þetta mundi hann á Íslandi hafa orðið að missa embætti sitt, samkvæmt þessari reglu. Að þetta væri hið eðlilega og sjálfsagða hefur hann líka rennt grun í sjálfur og hefur hann með því gjört ýmsum stjettarbræðrum sínum heima minnkun, sem þó hefur verið meira lánað. Sjálfkrafa sagði hann sig úr kirkjufjelagi voru, þegar hann fór „í sinni grunnhyggni" að kenna gagnstætt játning þess. Það hefur aldrei rekið hann, þótt nú sje verið að útbreiða þau ósannindi af óvinum vorum. Hann skildi það, að enginn prestur getur haft leyfi til að hafa embætti á hendi í þeirri kirkju, sem hann afneitar með kenning sinni. Og svo fór hann.

En svo leyfum vjer oss í mesta bróðerni að spyrja: Hve nær á það að koma í ljós, að ísl. kirkjan standi við þessi og þvílík orð sín? Á hverju eigum vjer að sjá, að þau sjeu töluð í alvöru? Hvað langur á aðdragandinn að verða?

En nóg um það. Síra Matth. hefur gjört sína játning viðvíkjandi kenníngunni um eilífa útskúfun, með því að neita henni og mögulegleik hennar. Og Kirkjublaðinu hefur fundizt, að það verða að gjöra sína játning í þeirri grein líka. Hvers vegna það var nauðsynlegt vitum vjer ekki. Líklega hefur það samt þótt nauðsynlegt vegna vor hjer vestra, og af því að þetta mál er nú komið á dagsskrá þar heima. Játning Kirkjublaðsins er í því fólgin, að láta spurninguna um eilífa útskúfun óleysta, svara henni hvorki

með já eða nei, eða þá bæði með já og nei, eptir því sem menn vilja hafa það. Það vitnar til dansks guðfræðings, biskups Martensens, er þannig hefur kennt í trúfræði sinni. Og það biður oss hjer vestra að hugsa oss vel um, áður en vjer segjum oss úr andlegu samneyti við þá þar heima er fylgi Martensen í þessari grein.

Oss kemur það ekki til hugar. Oss mundi ekki koma það til hugar um nokkurn mann, hvort heldur leikmann eða kennimann í kirkjunni, þegar hann framsetur þessa játning sína með jafnmikilli stilling og hógværð og það er gjört af biskup Martensen. Og þó megum vjer ekki dyljast þess, að oss tekur það mjög sárt, að bræður vorir þar heima skuli taka Martensen fram yfir játningarrit kirkjunnar í þessu eða nokkru öðru efni. Ekki gjörir danska kirkjan það; hún heiðrar að vísu sinn Martensen, en hún stendur við játning allra kristinna kirkjudeilda um allan heim. Vjer vitum að einstakir menn í vorri lútersku kirkju halda með Martensen í þessu efni. En vjer vitum ekki til þess, að nokkur deild kirkju vorrar hafi gjört þá yfirlýsing, að það væri rjettast að láta þetta óákveðið. Kirkja vor beygir sig miklu fremur þann dag í dag hvervetna í heiminum fyrir orðum frelsarans, er sýna oss djúp staðfest milli bústaðanna hinu megin, sem enginn fær komizt yfir.

Svo er önnur ástæða til þess, að oss þótti þetta fremur kynlegt. Nýlega hefur ísl. kirkjan eignazt nýtt barnalærdómskver, samið af forstöðumanni prestaskólans, síra Helga Hálfdánarsyni. Þrátt fyrir ýmislegt, sem má að því finna eins og öðrum mannaverkum, er það að voru áliti langbezta kverið, sem vjer höfum átt. Nú síðustu árin hefur það verið lært af hverju barni á Islandi, sem verið hefur búið undir ferming. Yfir höfuð hefur þessu nýja kveri verið mæta vel tekið, bæði af prestum og leikmönnum, og höfundurinn getið sjer maklegt lof fyrir. En í þessu kveri er skýlaust að orði komizt um þetta atriði. Greinin hljóðar þannig: Eptir dóminn hreppa þeir, sem með vantrú og þrjózku hafa hafnað guðs náð, *eilífan dauða* eða *eilífa glötun*. Þessi vitnisburður um þetta trúaratriði

gekk út um allt land frá prestaskólanum fyrir nokkrum árum síðan. Og hvert barn hefur verið fermt upp á þetta síðan. Nú gengur sá vitnisburður út um landið frá sama prestaskólanum, að bezt sje að segja hvorki af eða á um þetta, láta það hlutlaust og óákveðið. Vjer óttumst, að þetta verði ekki til að styrkja hina íslenzku þjóð í trú hennar, heldur miklu fremur til hins gagnstæða.

Og gagnvart vantrúnni og neituninni, sem nú er hvervetna uppi meðal þjóðar vorrar, er þetta hálft en ekki heilt. Hún tekur sjer þetta og annað eins til inntektar, um það geta menn verið vissir. Enda hefur það þegar komið í ljós (sbr. Fjallk.). Og vjer óttumst, að vantrúin láti það klingja opt og einatt í eyrum kirkju vorrar, og leitist þið að fá hana til að setja spurningarmerki við fleiri atriði trúarjátningar sinnar en þetta. Þegar eins er ástatt og nú er, þarf vitnisburður kirkjunnar um fram allt að vera heill, en ekki hálfur og veill, í þessu atriði, sem öllum öðrum.

## *FÚIN VIRKI.*

Margir af lesendum vorum muna eptir nýárskvæði síra Matthíasar, sem út kom í síðasta tölubl. *Lýðs.* Það er að mörgu leyti fremur óvandvirknislegt, en hefur inni að halda ýmsar fagrar og sannar hugsanir; það er fullt af skáldlegum tilþrifum eins og vant er hjá höf. Á titilblaðinu fyrir „Aldamótum“ stendur eitt vers úr kvæði þessu. Það hljóðar svo:

Jeg veit að trúin á virki fúin,
það vantar bót;
en lát ei teygjast svo losnir eigi
við lífs þíns rót,
því bráðum eygir þú *aldamót*,
þá opnast vegir, sem ljetta fót.

Ritstjóri Kirkjublaðsins segist hafa brosað, þegar hann las þessi einkunnarorð fyrir riti voru, vestur-íslenzku prestanna. Og hann hafi brosað vegna þess, að þar sem síra M. tali um „fúin virki“, hafi hann auðvitað meint kenninguna um eilífa útskúfun, ásamt ýmsu öðru, sem honum finnst vera orðið úrelt, en vjer viljum verja og í heiðri hafa. — Oss

furðaði ekki svo lítið á þessu brosi bróður vors fyrir handan hafið. Því það bendir óneitanlega á þrengri skoðun á skáldskap en vjer áttum von á að fram mundi koma hjá honum. — Samkvæmt þessum skilningi hefur sálmabókarnefndin gjört sig seka í sömu ósamkvæmninni og vjer með því að taka sálma síra M. upp í sálmabók vora. Því ef hún hefði lesið sálma hans í birtu alls þess, sem hann hefur látið sjer um munn fara, bæði opinberlega og prívat, í blaðagreinum og brjefum til kunningjanna, hefði ekki getað hjá því farið, að sama brosið hefði komið yfir varir hennar og ritstjóri Kirkjublaðsins talar um. Hún hefur því hlotið að slá stryki yfir allt þetta í huga sínum. Hið sama verða allir þeir að gjöra, er syngja vilja sálma hans, — og vjer vitum ekki betur en það sjeu allir, er nota sálmabók vora. Þeir setja þá ekki í samband við hinar marglitu skoðanir höfundarins, heldur skilja þá eptir orðanna hljóðun. Af eldri sálmum kirkjunnar eru æðimargir ortir af óreglumönnum. Enginn lætur það nú draga úr gildi þeirra, þótt virkileikinn í lífi höfundanna hafi ekki verið á nærri því jafnháu stigi og hinar göfugustu hugmyndir þeirra. Og vissulega væri það hörmulegt þröngsýni, er ljeti skáldskapinn, hvort heldur hann er veraldlegs eða andlegs efnis, gjalda þess, þótt höfundarnir hafi ekki á einhvern hátt staðið við hann í lífi sínu. Það yrði lítið eptir af verkum hinna mestu skálda heimsins, ef þau væru mæld á þann kvarða.

Þegar vjer höfum fyrir oss annað eins og þetta eptir síra M.: „Jeg veit, að trúin á virkin fúin“ o. s. frv., leggjum vjer nákvæmlega þá þýðing í orð þessi, er þau sjálf bera með sjer. Orðið *virki* er í þessu sambaudi hið sama sem hinar ytri umbúðir trúarinnar. Það eru öll þau mannlegu verkfæri, sem sannleikurinn tekur í þjónustu sína. Það eru mennirnir, sem eiga að vera erindsrekar drottins, og settir eru yfir hjörðina til að gæta hennar. Það eru kennarar og sálusorgarar kirkjunnar, sem halda eiga uppi vörn og sókn fyrir trúna um leið og þeir sá og gróðursetja, vökva og verma með starfi sínu í víngarði drottins. Allt þetta er virki trúarinnar. Og í þau getur komið *fúi*,

þótt hann snerti auðvitað aldrei trúna, sannleikann sjálfan. Af því það virðist vera æði-margt, sem bendir á að fúi sje kominn hjer og þar í virki vorrar ísl. kirkju á yfirstandandi tíð, voru hinar áminnztu hendingar eptir síra M. gjörðar að einkunnarorðum rits vors. Það að síra M. neitar útskúfunarkenningunni hefur ekkert með þau að gjöra, annað en það að benda á hann og aðra, er eitthvað svipað gjöra, sem fúin virki frá kirkjulegu sjónarmiði. En það að Kirkjublaðið, helzti riddarinn, sem kirkja fósturjarðar vorrar nú á, kemur í þessu máli fram á vígvöllinn með brotna burtstöng, sýnir betur en nokkuð annað að ekki er alveg ástæðulaust að tala um fúa.

.Vjer brosum stundum hjerna megin hafsins líka!

---

*SÆBJÖRG*

heitir nýtt mánaðarblað með myndum, sem barst hingað frá Íslandi með síðasta pósti. Ritstjórinn er hinn ötuli og óþreytandi starfsmaður í bjargráðamálum sjómanna á Íslandi, síra O. V. Gíslason, og blaðið verður algjörlega helgað þessari bjargráðahugmynd. Ef til vill finnst mörgum það býsna óskylt verk starfi prestsins, að verja miklum tíma og kröptum til að hvetja sjómenn til að hafa með sjer lýsi á sjó. En eitt hið voðalegasta í lífskjörum þjóðar vorrar eru hinir tíðu skipskaðar á hverju ári. Fósturjörð vor missir árlega sorglega mikinn hlut af bezta vinnukrapti sínum í sjóinn og raddir munaðarleysingjanna hrópa hundruðum saman til himins. Starf síra Odds Gíslasonar er þess vegna verk mannkærleikans í fyrstu röð. Það er borið fram með brennandi trú og óbilandi starfsfjöri. Hinni andlegu hlið þessara bjargráðamála er heldur ekki gleymt. Um leið og sjómenn eru áminntir um að viðhafa öll þau varúðarmeðöl, er reynslan hefur kennt mönnum að nota, gleymir hann ekki að áminna þá um náðarmeðul drottins, guðs orðið og bænina, sem hin mest óyggjandi bjargráð í öllum lífsháska. Síra Oddur er líka einn hinna ötulustu og starfsömustu bindindismanna á Íslandi. Ef kirkja þjóðar vorrar ætti marga jafn-ötula og trúarsterka starfsmenn, mundi margt

verða gjört, sem nú bíður ógjört. — „Sam.“ óskar síra Oddi og starfi hans drottins blessunar og vonar að bjargráð hans verði til þess að frelsa marga úr allskonar háska.

---

Apríl-nr.ið af „Sunnanfara“ er nýkomið og hefur meðferðis mynd af ritstjóra þessa blaðs, síra Jóni Bjarnasyni, sem lengi hefur legið sárþjáður og dauðvona, eins og lesendum vorum er kunnugt. Myndinni fylgir stillilega og vel rituð grein um hann og starf hans eptir ritstjóra „Lögbergs“, Einar Hjörleifsson, samin eptir ósk ritstjórnar „Sunnanfara“. það er eitt ofur-lítið smáatriði í grein þessari, sem ef til vill verður misskilið af einstaka manni. það er lögð meiri áherzla á það en orsök er til, að lút. kirkjan hjer í landinu sje frásneidd öðrum kirkjufjelögum. Hún er það ekki, þegar um einhver almenn kristileg fyrirtæki er að ræða. Hún er það ekki í umgengni sinni við önnur kirkjufjelög, nema að svo miklu leyti, sem hún lætur ekki ólúterska presta prjedika í kirkjum sínum. Fyrir nokkrum árum var sami maðurinn forstöðumaður lút. prestaskólans í Philadelphia og einn helzti kennarinn við háskóla Pennsylvania ríkisins. Slíkt hið sama mætti benda á víða. Í öllum stærri bæjum mynda prestar allra kristinna kirkna, er tala sama máli, optast eitt fjelag sín á milli. þar eru flestir ensku-talandi lút. prestar með. — Aldrei hafa komið fram sterkari bendingar en einmitt nú um það, hve almennt farið er að viðurkenna starf síra Jóns Bjarnasonar í kristindómsmálum þjóðar vorrar og þýðing þess fyrir komandi tíma. Öllum vinum hans, sem fyrir löngu síðan vissu, hvaða maður hann var, er sú viðurkenning mikið gleðiefni. En hún er þeim sorgarefni um leið, því hún minnir þá svo áþreifanlega á það, hve mikils þeir missa, ef drottni þóknast að taka hann frá þeim. það er gott að hafa það í huga nú, er vjer syngjum svo opt: „að stendur sá við stjórnvölinn, sem stýrir öllu vel“. Öll þessi langa og kvalafulla sjúkdómslega vors elskaða bróður hefur verið eitt einasta langt og átakanlegt bænarandvarp til drottins um náð og miskunnsemi sjer og öllu voru

kristna fólki til handa. Og vjer vitum að sú bæn verður heyrð.

---

GJÓF TIL SKÓLANS.

Dálítið kappræðu fjelag í nágrenni við Eyford, N. D., hafði eignazt ofurlítinn sjóð, að upphæð $124,12. Nýlega ráðstafaði fjelagið sjóð þessum þannig, að það gaf helminginn til kirkjubyggingar þar á Eyford en hinn helminginn — $62.06, til hinnar fyrirhuguðu skólastofnunar kirkjufjelagsins. Þessi síðari upphæð hefur mjer verið afhent af hr. Ásv. Sigurðssyni og þakka jeg gefendunum göfuglyndi þeirra um leið og jeg viðurkenni að hafa veitt peningunum viðtöku fyrir hönd skólanefndarinnar.

17. marz 1892.

*F. J. Bergmann.*

---

Þetta nr. „Sam," er redígerað af Friðrik J. Bergmann.

---

Borgunarlisti fyrir „Sam." komst ekki í þetta nr.; kemur næst.

---

Lexíur fyrir sunnudagsskólann; annar ársfjórðungr 1892.

5. lexía, sd. 1. mai: Bœn um fyrirgefning (Sálm. 51, 1—13).
6. lexía, sd. 8. mai: Löngun til húss drottins (Sálm, 84, 1—12).
7. lexía, sd. 15. mai: Lofsöngur (Sálm. 103, 1—22).
8. lexía, sd. 22. mai: Daníel og fjelagsbræður hans (Dan. 1, 8—21).
9. lexía, sd. 29. mai: Draumur Nebúkadnesars (Dan. 2, 36—49).

---

Kaupendr „Sam." í Minnesota gjöri svo vel, að greiða borgun fyrir blaðið til séra S t e i n g r í m s Þ o r l á k s s o n a r í Minneota, sem góðfúslega hefir lofað að veita henni móttöku.

Fr. J. Bergmann.

Eins biðr séra Hafsteinn Pétrsson „Sam." að geta þess, að Mr. B j ö r n S k a g f j ö r ð hafi tekið að sér alla fjárheimtu í Þingvallanýlendu.

Fjárheimtu fyrir „Sam." hefir séra Fr. J. Bergmann í Dakota, Páll S. Bardal í Winnipeg og Selkirk, séra Hafsteinn Pétrsson í Argyle-nýlendu og Jóhann Briem í Nýja Íslandi. — Annars sé peningar til „Sam." sendir *M. & W. H. Paulson*, 162 11th Str. N., Winnipeg.

— Á Íslandi borgi allir útsölumenn „Sam." til bóksala Sigurðar Kristjánssonar í Reykjavík.

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, Sigurðr Kristofersson, H. Hermann, Jóh. Briem

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.